# Íslanz minni.

Þið þekkjið fold með blíðri brá,
og bláum tindi fjalla,
og svanahljómi, silúngsá,
og sælu blómi valla,
og brøttum fossi, bjørtum sjá
og breíðum jøkulskalla —
drjúp' hana blessun drottins á
um daga heímsins alla.

KAUPMANNAHÖFN,
*prentað hjá Berlíngum.*

